við þeim vel ok spurðe tíðenda. Þeir sǫgðo slík, sem orðen vǫro. Hann lætr illa yfer. Þorbiǫrn karl tekr þá til orða: „á þá leið er, Oddr bónde,“ sagðe hann, „at þú hefer heitet mér ásiǫ þinne; ok vil ek nú til þess taka, at þú legger til nǫkkor góð rǫð ok komer til.“ Oddr kuazk suá gøra mundo.

Ríða þeir nú í Ǫrnolfsdal ok koma þar fyrer dag. Vǫro þá fallen húsen ok fǫlskaðr miǫk eldrenn. Nú ríðr Oddr at húse eino, þuí er eige var allt brunnet. Hann seilesk til birkerapts eins ok kipper braut ór húseno, ríðr síðan andsøles um húsen með loganda brandenn ok mælte: „hér nem ek mér land, — fyrer þuí at hér sé ek nú eige byggðan bólstað —: heyre þat váttar þeir er hiá ero!“ Hann keyrer síðan hestenn ok ríðr í braut.

Hersteinn mælte: „huat er nú til ráða? eige reyndosk þesse vel!“ Þorbiǫrn mælte: „þege þú, ef þú mátt, huat sem í gøresk!“ Hersteinn suarar ok kuazk þat eina talat hafa, er eige var við of. Útebúr var óbrunnet, þat sem varningr austmannz var inne ok miket fé annat. Í þesso huerfr Þorbiǫrn karl. Nú litr Hersteinn heim til bøiarens ok sér útebúret opet ok út boret féet, en engan sér hann manneun; þar ero bundnar klyfiar. Þarnæst heyrer hann hark miket í túnet: sér nú, at heim ero reken hross ǫll, þau er faðer hans hafðe átt, sauðer ok naut ór fióse ok allt ganganda fé Síðan ero klyfiar upp hafðar ok þuí næst ǫllo á ferð snúet ok allt fémætt á braut fǿrt. Hersteinn víkr nú epter ok sér, at Þorbiǫrn karl rekr féet. Þeir snúa leið sinne ofan epter heraðe, í Stafholztungor, ok suá út yfer Norðrǫ.

10. Sauðamaðr Þorkels trefels ór Suignaskarðe gekk þenna morgen at fé síno. Hann sér, huar þeir fara ok reka allzkyns fénað. Hann seger þetta Þorkatle, en hann suarar: „veit ek, huerio gegna mon: þat mono vera Þuerhlíðingar, viner míner; þeir hafa vetrarnauð mikla, ok mono þeir reka hingat fé sitt. Skal þeim þat heimelt: ek hefe hey øren, ero hér ok nógar iarðer útefé.“ Hann

gekk út, er þeir kómo i tún, ok fagnar þeim ok býðr allan greiða, slíkan sem þeir vilia þeget hafa. Varla nǫ́ðo þeir at stíga af bake, suá var bónde beinn við þá. Þorbiǫrn mælte: „miket er nú um beina þinn, ok være miket under, at þu efnder þetta allt vel, er þú hefer heitet okkr.“ „Veit ek erende þitt, at féet mon hér skolo epter vera; ok skorter hér eige iǫrð nóga ok góða.“ Þorbiǫrn mælte: „Þiggia monom vit þat.“ Þá víkr hann Þorkatle hiá húsonom ok mælte: „tíðende mikel ero at segia.“ Þorkell spurðe, huer þau være. „Blundketell bónde var brenndr inne í nótt,“ sagðe Þorbiǫrn. „Huerer gørðo þat níðingsverk?“ sagðe Þorkell. Þorbiǫrn sagðe þá allt, sem faret hafðe: „ok þarf Hersteinn nú þinna heilla ráða.“ Þorkell mælte: „eige þøtte mér ráðet, huárt ek munda suá skiótt á boð brugðezk hafa, ef ek hefða þetta vitat fyrr; en mínom rǫ́ðom vil ek nú láta fram fara, — ok fǫrom nú til matar fyrst!“ Þeir iǫ́toðo þuí. Þorkell trefell var þá miǫk fámǫ́logr ok nǫkkot hugse; ok er þeir vǫ́ro metter, lætr hann taka hesta þeirra. Síðan taka þeir vǫ́pn sín ok stíga á bak. Ríðr Þorkell fyrer þann dag, ok mælte áðr, at vel skylde geyma fiárens í haganom, en gefa vel þuí, sem inne var.

Þeir ríða nú út á Skógarstrǫnd, á Gunnarsstaðe: þat er innarlega á strǫndenne. Þar bió sá maðr, er Gunnarr hét, ok var Hlífarson, mikell maðr ok sterkr ok enn meste garpr. Hann átte systor Þórðar gelles, er Helga hét. Gunnarr átte tuær døtr, hét ǫnnor Iófríðr, en ǫnnor Þuríðr.

Þeir koma þar síð dags, ok stíga af bake fyrer ofan hús. Vindr var á norðan ok heldr kalt. Þorkell gengr at durom ok klappar, en húskarl gengr til hurðar ok heilsar vel þeim, sem komenn var, ok spyrr, huerr hann være. Þorkell kuað hann eige vita mundo at gørr, þó hann segðe honom: „ok bið Gunnar út ganga!“ Hann kuað Gunnar komenn í rekkio. Hann biðr hann segia, at maðr vill hitta hann. Húskarl gører suá, gengr inn ok seger Gunnare, at maðr vill hitta hann. Gunnarr spurðe, huerr hann være.

Húskarl kuazk þat eige vita: „en mikell er hann vexte.“ Gunnarr mælte: „far þú ok seg honom, at hann sé hér í nótt.“ Húskarl ferr ok gører, sem Gunnarr bauð; en Þorkell kuazk eige vilia þiggia boð af þrælom, heldr at bónda siǫlfom. Húskarl seger, at þat være sannlegra: „en eige hefer Gunnarr vana til þess, at standa upp um nætr. Gørðu annathuárt,“ sagðe húskarl, „at þú far á braut eða gakk inn ok ver hér í nótt.“ „Gørðu annathuárt,“ seger Þorkell. „at þú rek erende duganda, eða — ek legg suerzhiǫlten á naser þér.“ Húskarl hleypr inn ok rekr aptr hurðena. Gunnarr spurðe, huí hann føre suá óðlega. Hann sagðesk eige vildo tala fleira við enn komna mann: „þuíat hann er miǫk hastorðr.“

Gunnarr reis þá upp ok gekk út í túnet. Hann var í skyrto ok línbrókom, mǫttol yfer sér ok suarta skó á fótom, suerð í hende. Hann fagnar vel Þorkatle ok biðr hann inn ganga. Hann seger, at þeir vǫro fleire saman. Gunnarr gengr út í túnet, en Þorkell þrífr í hurðarhringenn ok rekr aptr hurðena. Þeir ganga þá á bak húsonom. Gunnarr heilsar þeim. Þorkell sagðe: „setiomsk vér niðr, þuíat vér eigom mart at tala við þik, Gunnarr.“ Þeir gøra suá, setiask niðr á tuær hendr honom ok suá nær, at þeir sǫto á skikkionne, er Gunnarr hafðe yfer sér.

Þorkell mælte þá: „suá er háttat, Gunnarr bónde! at hér er sá maðr í ferð með mér, er Hersteinn heiter, son Blundketels. Er eige þuí erende at leyna, at hann vill biðia dóttor þinnar, Þuríðar. Hefe ek ok fyrir þessa sǫk með honom faret, at ek vilda eige, at þú vísaðer mannenom frá, þuíat mér sýnesk happaráð et mesta. Þykke mér ok miklo varða, at eige sé óvirt þetta mál ok mín tillǫg eða seint suarat.“ Gunnarr mælte: „eige em ek einhlítr um suǫr þessa máls, ok vil ek ráðask um við móðor hennar ok suá við dóttor mína ok einkom við Þórð gelle, frænda hennar. En góðar einar frétter hǫfom vér til þessa mannz ok suá til fǫðor hans, ok er þetta ásiámál.“ Þá suarar Trefell: „suá skaltu til ætla, at vér monom eige

lenge vǫnbiðlar kononnar; ok þykkiomsk vér eige minnr siá fyrer þinne sǿmð en várre. þykke mér ok kynlegt um suá vitran mann, sem þú ert, at þú virðer slíka hlute fyrer þér, suá vel sem boðet er. Hǫfom vér ok suá at eins heiman gǫrt ferð vára, at eige mon til einskes ǽtloð; ok mon ek, Hersteinn! veita þér slíkt lið sem þú vill, at þetta fare fram, ef hann kann eige at siá, huat honom sómer" Gunnarr suarar: „þat fǽ ek eige skilet, huí ér láteð suá brátt at þesso eða haldeð við heitan sialfa; þuíat mér lízk þetta miǫk iafnrǽðe, en einskes illz ørvǽnte ek fyrer yðr; ok mon ek þat ráð upp taka, at rétta fram hǫndena!" ok suá gører hann; en Hersteinn nefner sér vátta ok fastnar sér kono.

Epter þetta standa þeir upp ok ganga inn. Er þeim veittr beine góðr. Nú spyrr Gunnarr tíðenda. þorkell seger, at þeir hafe nú eige annat nýlegarr frétt en brenno Blundketels. Gunnarr spurðe, huerr þuí olle. þorkell seger, at þorvaldr Odzson var upphafsmaðr at ok Arngrímr goðe. Gunnarr suaraðe fǫ́, lastaðe lítt, enda lofaðe eige.

11. þegar um morgenenn í ár er Gunnarr á fótom ok gengr at þorkatle, ok bað þá klǽðask. þeir gøra suá, ganga síðan til snǽðings; ero þá ok búner hestar þeirra, ok stíga þeir á bak. Ríðr Gunnarr fyrer inn með firðenom. þá vǫro íslǫg mikel. Eige létta þeir fyrr en þeir koma í Huamm til þórðar gelles; ok fagnar hann þeim vel ok spurðe tíðenda; þeir sǫgðo slíkt er þeim líkaðe. Gunnarr heimter þórð á mál ok seger, at þar er í fǫr Hersteinn, son Blundketels, ok þorkell trefell: „er þat erende þeirra, at Hersteinn mǽler til mǽgða við mik, en til samfara við þuríðe, dóttor mína; — eða huerso ráðlegt lízk þér þat? maðr er vǽnn ok gørfelegr, hann skorter ok eige fé, þuí faðer hans hefer þat mǽlt, at hann munde af hende láta búet, en Hersteinn tøke við." þórðr suarar: „vel er mér við Blundketel, þuíat einn tíma, er vit Tungo-Oddr deildom á alþinge um þrǽls giǫld, er dǿmðosk á

hendr honom, ok fór ek at heimta í foraz-illo veðre ok vér þrír saman, ok kómom um nótt til Blundketels, ok var oss þar allvel fagnat, ok þar vǫrom vér viko. Hann skipte við oss hestom, en gaf mér góð stóðhross. Slíkt reynda ek af honom; en þo lízk mér suá á, at eige mune því misráðet, þó at eige sé þesso keypt.“ „Suá máttu til ǽtla“, sagðe Gunnarr, „at eige mon hon fǫstnoð ǫðrom manne, þó henne bióðesk, því mér lízk siá maðr vasklegr ok vel boðenn, ok mikel hǽtta í, huerso til teksk, ef þessom manne er frá vísat.“

Epter þat gengr Gunnarr til fundar við dóttor sína, þuíat hon var með Þórðe á fóstre, ok frétter hana epter, huerso henne var um gefet. Hon suarar, at eige er henne suá mikel manngirnd í hug, at henne þǿtte eige iafngott at sitia heima: „þuíat ek á kost góðrar forsiǫ́, þar sem Þórðr er, frǽnde minn; en ykkarn vilia mon ek gøra um þetta ok annat.“

Nú elr Gunnarr á málet við Þórð ok seger, at honom lízk þetta ráð allsømelegt. Þórðr suarar: „huí skaltu eige gefa honom dóttor þína, ef þér líkar?“ Gunnarr suarar: „því at eins gef ek hana, at þat sé iafnvel þinn vile sem minn.“ Þórðr kuað beggia þeirra rád þetta vera skyldo. „Ek vil“, sagðe Gunnarr, „at þú, Þórðr, fastner Hersteine konona.“ Þórðr suarar: „sialfr skaltu þat gøra, at fastna dóttor þína.“ Gunnarr suarar: „mér þykker meire virðing í, at þú fastner hana; þuíat þat samer betr.“

Þórðr lét nú þetta leiðask, ok fóro nú festar fram. Þá mǽlte Gunnarr: „bið ek enn, at þú láter hér vera boðet í Huamme, ok mon þá gǫrt verða með mestre sømð.“ Þórðr bað hann því ok ráða, ef honom þǿtte suá betr. Gunnarr seger: „suá monom vér til ǽtla, at vér látem þegar vera á viko freste.“

Epter þat stíga þeir á bak ok snúa á ferð, ok víkr Þórðr á gǫto með þeim ok spurðe enn, ef nǫkkot vǽre nýtt at segia. Gunnarr suarar: „ekke hǫfom vér nú nýlegarr frétt en brenno Blundketels bónda.“ Þórðr spurðe,

huerso þat varð; en Gunnarr sagðe allan atburðenn um brennona, ok huerr henne olle, ok suá, huerer þat gørðo. Þórðr mælte: „eige munde þesso giaforðe suá skiótt ráðet hafa veret, ef ek hefða þetta vitat; ok þykkezk ér nú allmiǫk hafa komezk fyrer mik í vite ok beittan brǫgðom í þesso; en þó þykke mér eige víst, at ér séð yðr einhlíter at þesso mále.“ Gunnarr mælte: „þar er gott til trausts at ætla, sem þú ert; enda er þér nú skylt, at veita máge þínom, en vér erom skylder, at veita þér, — þuíat marger heyrðo, at þú fastnaðer konona, ok þetta var allt við þitt ráð gǫrt; ok er nú vel, at ér reyneð eitt sinn, huerr yðuar driúgastr er, hǫfðingianna, þuíat ér hafeð lenge ulfsmunne af etezk.“

12. Nú skiliask þeir. Ok er Þórðr enn reiðaste, ok þykker honom þeir hafa gabbat sik. En þeir ríða nú fyrst á Gunnarsstaðe ok þykkiask allvel leiket hafa, at þeir hǫfðo komet Þórðe í málet með sér, ok vǫro nú allkáter.

Eige ríða þeir nú suðr at sinne, en bióða mǫnnom til boz, ok søkia í Huamm at ákueðnom tíma. Hafðe Þórðr þar mart fyrer bozmanna, ok skipar mǫnnom í sæte um kueldet. Sat hann sialfr á annan bekk ok Gunnarr mágr hans ok hans menn, en Þorkell trefell hiá brúðguma á annan bekk ok þeirra bozmenn; brúðer skipoðo pall.

Ok suá sem borð vǫro sett ok aller menn í sæte komner, þá stǫkk Hersteinn brúðgume fram yfer borðet ok gengr þar at, sem einn steinn stóð. Hann sté ǫðrom føte uppá steinenn ok mælte: „þess strenge ek heit“ — sagðe hann — „at áðr alþinge er úte í sumar, skal ek hafa fullsektat Arngrím goða, eða sialfdøme ella!“ Síðan stígr hann í sæte sitt. Gunnarr stǫkk þá fram ok mælte: „þess strenge ek heit“ — sagðe hann — „at áðr alþinge er úte í sumar, skal ek hafa sótt til útlegðar Þorvald Odzson, eða hafa sialfdøme ella!“ Upp stígr hann under borð ok mælte til Þórðar: „huí sitr þú, Þórðr, ok mæler ekke um? vitom vér, at slíkt er þér í hug sem oss.“ Þórðr suarar: „kyrt mon þat at sinne.“ Gunnarr suarar:

„ef þú vill, at vér talem fyrer þik, þá er þat til reiðo; en vitom vér, at þú ætlar þér Tungo-Odd.“ þórðr mælte: „ér skoloð ráða yðrom ummælom, en ek mon þuí ráða, huat ek tala. Endeð þetta vel, sem ér hafeð um mælt!“

Eige varð til nýlundo fleira at boðeno, en þó fór þat allskǫrolega fram; ok er þat þraut, fór huerr sem fyrer lá. Ok líðr vetrenn af hende. Ok er várar, safna þeir at sér mǫnnom ok fara suðr til Borgarfiarðar ok koma í Norðrtungo ok stefna Arngríme til þings í þingnes ok Hønsna-þóre. Nú skilsk Hersteinn frá liðeno með þrimr tigom manna þangat, sem hann sagðe enn síðasta náttstað veret hafa þorvalz Odzsonar, — þuíat hann var þá farenn af vist sinne.

Nú er ókyrt í heraðeno ok mikel umrøða ok samandrǫttr liz af huárretueggia hende.

13. þat varð til tíðenda, af Hønsna-þórer huarf braut ór heraðeno við tolfta mann, þegar hann spurðe, huerer í málet vǫro komner; ok fréttesk allz ekki til hans.

Oddr safnar nú liðe um dalena, Reykiardal huárntueggia ok Skorradal, ok um allar sueiter fyrer sunnan Huítǫ; ok þó hafðe hann mart ór ǫðrom sueitom. Arngrímr goðe safnaðe mǫnnom um þuerárhlíð ok Norðrárdal at sumom hluta. þorkell trefell safnaðe mǫnnom et neðra um Mýrar ok Stafholztungor, ok suma Norðdøla hefer hann með sér, þuíat Helge, bróðer hans, bió í Huamme ok hefer hann hann með sér.

Nú safnar þórðr geller liðe vestan, ok hefer eige mart lið. Hittask nú þesser aller, er í vǫro máleno, ok hafa allz tuau hundroð manna. Ríða nú ofan fyrir utan Norðrǫ ok yfer ǫ at Eyiavaðe, fyrer ofan Stafholt, ok ætla yfer Huítǫ, þar sem heiter þrælastraumr. þá siá þeir mannaferð mikla fyrer sunnan ǫna: er þar Tungo-Oddr ok hafðe nær fiogor hundroð manna. Greiða nú ferðena ok vilia fyrr koma til vazens. Hittask nú við ǫna; ok hlaupa þeir Oddr af bake ok veria vaðet; en þeim þórðe gengr ógreitt framreiðen, ok vildo þó giarna

komask á þinget. Slær nú í bardaga, ok verða þegar áverkar. Fello fiórer menn af þórðe; þar fell þórolfr refr, bróðer Ǫlfs ór Dǫlom, virðolegr maðr. Ok huerfa nú frá viď suá búet. Einn maðr fell af Odde, en þrír urðo miǫk sárer.

þórðr snýr nú máleno til alþinges. þeir ríða nú heim vestr, ok þykker mǫnnom miǫk hallazk hafa metorð Vestanmanna.

Nú ríðr Oddr á þinget. Hann sende heim þræla sína með hross. Iórunn, kona hans, spurďe tíðenda, er þeir kómo heim. þeir kóðosk enge segia kunna ǫnnor en þau, at sá maðr var einn komenn vestan ór Breiðafirðe, at suara kunne Tungo-Odde: „ok var hans hliómr ok rǫdd, sem griðungr gellde.“ Hon kuað þat enge tíďende, þótt honom være suarat sem ǫðrom manne, en kuað þó þat hafa gǫrzk at tíðendom, at eige være líklegra til. „Var þar ok bardage“, sǫgðo þeir, „ok fello fimm menn allz, en marger urðo sárer.“ En áďr gǫ́to þeir þess at engo.

Nú líðr þinget, ok verðr þar ekke til tíðenda. En er þeir mágar koma heim vestr, skipta þeir bústǫðom: ferr Gunnarr í Ǫrnolfsdal, en Hersteinn tekr Gunnarsstaðe. Epter þetta lætr Gunnarr føra til sín vestan við þann allan, sem Ǫrn austmaðr hafðe átt, oþ flytia heim í Ǫrnolfsdal; tekr hann til síðan ok húsar upp bøenn í annat sinn, þuíat Gunnarr var allra manna hagastr: hann var ok um allt atgørfesmaðr ok manna bezt vígr ok enn vaskaste í ǫllo.

14. Nú líða stunder fram allt til þess, at menn ríða til þings. Er nú mikell viðbúnaðr í heroðonom. Ríða nú huárertueggia ákafa fiǫlmenner. Ok er þeir þórðr geller koma á Gunnarsstaðe, er Hersteinn siúkr ok má eige fara til þings. Selr hann nú ǫðrom í hendr sakernar. Epter vǫ́ro hiá honom þrír tiger manna.

Nú ríðr þórðr til þings. Hann safnar at sér vinom sínom ok frændom ok kømr snemma til þings; — en

þinget var þá under 'Armannzfelle; — ok suá sem flokkar koma, hefer Þórðr lizdrǫtt mikenn.

Nú er sén ferð Tungo-Odz. Ríðr Þórðr þá í mót honom ok vill eige, at hann náe þinghelgenne. Oddr ríðr með þrimr hundroðom manna. Þeir Þórðr veria þinget, ok slǽr þá þegar í bardaga. Teksk brátt mannfall, en allmarger urðo sárer. Þar fello sex menn af Odde, því Þórðr var miklo fiǫlmennare. Þetta siá góðgiarner menn, at þau vandrǽðe munde af standa, ef þingheimrenn berðesk, at seint munde bǿtr bíða. Er þá genget í mille, ok verða skilðer, ok snúet mǫlom til sǽttar. Ok var Oddr ofrliðe borenn ok varð undan af láta, fyrer því at bǽðe var, at hann þótte þyngra málahlut eiga at flytia, enda varð hann aflvane fyrer liz saker. Var þá þat mǽlt, at Oddr munde tialda á braut ór þinghelge, en ganga til dóma ok at nauðsyniom sínom, fara með sik spaklega, sýna enga þriózko, né hans menn. Sitia menn nú yfer mǫlom ok leita at sǽtta þá.

Þórðr geller talaðe þá langa tǫlo ok snialla at lǫgberge ok tiáðe þat, huerso illa mǫnnom gegnde, at fara í ókunneg þing, at sǿkia um víg eða harma sína at reka; ok sagðe nú, huerso miket honom varð fyrer, áðr hann gat þesso mále til skila komet, ok kuað mǫrgom manne mein mundo at verða þesso vandrǽðe, ef eige vǽre bǿtr á ráðnar: fyrer því, sagðe hann, at hér til hafa þat lǫg veret, at saker skal sǿkia á því þinge, er nǽst er véttvangeno; en þá er landeno var skipt í fiórðunga, var suá skipat, at þriú vǫro þing í fiórðunge hueriom, nema í Norðlendinga fiórðunge vǫro fiogor, ok því suá, at þeir urðo eige á annat sátter: þeir er vǫro fyrer norðan Eyiafiǫrð, vildo eige þangat sǿkia þing, enda eige í Skagafiǫrð þeir, er fyrer vestan vǫro. En þó skylde iǫfn dómnefna á alþinge ór þeirra fiórðunge sem ór einhueriom ǫðrom. Af því skal einn maðr þaðan sitia fyrer forráz goðorð, at þeir goðar vildo aller setet hafa. En síðan vǫro sett fiórðungsþing. Suá sagðe mér Ulfheðenn Gunnarsson.

Nú er setet at mǫlonom, ok horfer Odde þunglega, fyrer þat mest, at miket ofrefle var í móte.

15. En nú skal segia nǫkkot af Hersteine: at honom létte brátt sóttarennar, er þeir riðo til þingsens. Ferr hann þá í Ǫrnolfsdal.

Þat var einn morgen snemma, at hann var í smiðio, — þuíat hann var manna hagastr á iárn. Þá kømr þar bónde einn, sá er Ǫrnolfr hét, ok sagðe suá: „siúk er kýr mín“ — sagðe hann — „ok bið ek þik, Hersteinn, at þú farer at siá hana. Þykker oss nú gott, at þú ert aptr komenn, ok hǫfom vér þá nǫkkot suá iðgiǫld fǫðor þíns, er oss varð at mesto gagne.“ Hersteinn suarar: „eige hirðe ek um kú þína, ok kann ek eige at siá, huat henne er til meins“ Bónde suarar: „mikell er þó munr, at faðer þinn gaf mér kúna, en þú vill eige siá hana.“ Hersteinn suarar: „ek gef þér aðra kú, ef þesse deyr.“ Bónde suarar: „þat vil ek fyrst þiggia, at þú sér þessa.“ Hersteinn sprettr þá upp, ok verðr hermt við, ok gengr út ok bóndenn með honom. Snúa síðan í veg til skógar. Liggr þar ein sneiðegata ok skógrenn á tuǽr hendr. Ok er Hersteinn ferr klifgǫtona, nemr hann staðar; — hann var allra manna skygnstr. Hann mǽlte þá: „kom þar fram skiǫldr í skógenom?“ Bónde þagðe. Hersteinn mǽlte: „hefer þú suiket mik, hundrenn þinn? — — Nú ef þú ert í nǫkkorom sǿrom at leyna, þá leggsk þú niðr í gǫtona ok tala ekke orð; en ef þú gǿrer eige þetta, þá mon ek drepa þik.“ Bóndenn leggsk þá niðr, en Hersteinn snýr heim ok kallar á menn sína. Þeir taka vǫpn sín ok fara síðan í skógenn ok finna Ǫrnolf í gǫtonne. Þeir biðia hann fara með sér þangat, sem mǽlt var, at þeir skyldo finnask.

Nú fara þeir þar til, er þeir koma í eitt rióðr. Þá mǽlte Hersteinn til Ǫrnolfs: „eige vil ek skylda þik til at tala; en far nú, sem fyrer þik var laget.“ Bónde hleypr þá upp á hól einn ok blístrar hátt. Síðan hlaupa þar fram tolf menn, ok var þar Hǿnsna-Þórer fyrer flokke.

En þeir Hersteinn taka þessa menn hǫndom ok drepa. Høggr Hersteinn sialfr hǫfoð af Þóre ok hefer með sér. Ríða nú síðan suðr til þings ok segia þar þesse tíðende. Verðr Hersteinn ágǽtr miǫk af þesso verke ok fǽr af virðing mikla, sem vǫn var at.

Nú er setet yfer mǫlom manna, ok verða þǽr málalykter, at Arngrímr goðe verðr sekr fullre sekt ok aller þeir, er at brennonne vǫro, nema Þorvaldr Odzson: hann skylde vera utan þriá vetr ok eiga þá útknǽmt. Gefet var fé fyrer hann ok suá til farningar ǫðrom mǫnnom. Þorvaldr fór utan um sumaret ok var leiddr upp á Skotlande ok þiáðr þar.

Nú epter þetta var slitet þingeno, ok þykker mǫnnom Þórðr vel ok skǫrolega hafa fylgt þessom mǫlom. Arngrímr goðe fór ok utan um sumaret, ok er þat eige ákueðet, huerso miket fé goldet var. Lýkr á þá leið þessom mǫlom. Ríða menn síðan heim af þinge. En þeir fara utan, sem mǽlt var, er seker vǫro.

16. Gunnarr Hlífarson sitr nú í Ǫrnolfsdal ok hefer húsat vel. Hann hafðe selfǫr ok var iafnan mannfátt heima. Iófríðr, dótter Gunnars, átte sér tiald úte, þuíat henne þótte þat ódauflegra. Einn dag berr suá til, at Þóroddr, son Tungo-Odz, ríðr í Þuerárhlíð. Hann kømr í Ǫrnolfsdal um farenn veg ok gengr inn í tialdet til Iófríðar. Hon heilsar honom vel. Hann sezk niðr hiá henne, ok taka þau tal sín á mille. Ok í þuí kømr sueinn frá seleno ok biðr Iófríðe taka ofan klyfiar með sér. Þóroddr ferr til ok tekr ofan klyfiarnar. En sueinnenn ferr síðan í braut ok kømr til sels. Gunnarr spyrr, huí honom yrðe nú suá fliótt. Hann suarar engo. Gunnarr spurðe: „sáttu nǫkkot til tíðenda?“ „Allz ekke“, kuað sueinnenn. „Nei“, sagðe Gunnarr, „þanneg ertu í bragðe, sem nǫkkot hafe þér fyrer augo boret, þat sem þér þykker umrǿðo vert; ok seg mér, ef suá er; eða er nǫkkot manna komet til bǿiarens?“ „Engan sá ek komenn,“ sagðe sueinnenn. „Þú mont nú segia verða!“ sagðe Gunnarr,

ok tók suiga einn mikeun ok ætlar at beria piltenn með. Ekke fekk hann af honom heldr en áðr.

Epter þat fekk Gunnarr sér hest ok hleypr á bak ok ríðr skyndelega ofan til vetrhúsa með hlíðenne. Iófríðr getr at líta ferð fǫðor síns ok sagðe þórodde ok biðr hann ríða braut: „vilda ek giarna, at eige hlytesk illt af mér.“ þóroddr segesk mono bráðlega ríða. Gunnar berr fliótt at, ok hleypr af bake, gengr þegar inn í tialdet. þóroddr heilsar honom vel, en Gunnarr tók kueðio hans ok spurðe síðan, huí hann være þar komenn. þóroddr sagðe, at suá bar til um ferðer hans: „ok vil ek þó eige gøra þetta til fiándskapar við þik; en vita vil ek, huerio þú vill suara mér, ef ek bið Iófríðar, dóttor þinnar.“ Gunnarr suarar: „eige mon ek gipta þér dóttor mína við þessa meðferðena. Hefer nú ok í odda staðezk með oss um hríð.“ Síðan reið þóroddr heim.

17. þat var einn dag, at Oddr seger, at eige munde illa fallet, at hafa nǫkkorar lanznytiar af Ǫrnolfsdal, — „þar er aðrer menn hafa setzk á eigor mínar at rǫngo.“ Konor sǫgðo þat til liggia: „gøresk fé harðla nytlétt, ok mon þá miklo betr miólka, ef suá er breytt.“ „þá skal þangat féno halda“, sagðe Oddr, „þuíat þar ero hagar góðer.“ þá sagðe þóroddr: „ek mon bióðask til at fylgia féno, ok mon þá ógengelegra þykkia.“ Oddr segesk þat giarna vilia. Ok fara þeir nú með féno. Ok er þeir ero langt komner, seger þóroddr, at þeir skolo þangat halda féno, at þeir fá versta haga ok skermsl ero mest. Nú liðr nótten af hende, ok reka þeir heim féet um morgenenn. Ok er konor hafa miólkat, þá kueða þær aldre iafnilla nytiazk hafa sem þá. Ok er þessa eige optarr freistat. Líða nú suá stunder fram.

þat var einn morgen snemma, at Oddr kømr at mále við þórodd, son sinn: „þú skalt fara ofan í sueit ok safna mǫnnom; ok vil ek nú reka menn af eignom vǫrom; en Torfe skal fara upp um Halsa ok gøra þeim í kunnleika um þenna fund. Vér skolom hittask við Steinsvað.“ þeir

gøra nú suá, safna liðe; fá þeir Þóroddr nío tigo manna; ríða siðan til vazens. Þeir Þóroddr koma fyrre til vazens. Hann biðr þá ríða fyrer: „en ek vil bíða fǫðor míns.“ Ok er þeir koma at garðe i Ǫrnolfsdal, er Gunnarr at gøra hlass. Nú røðer sueinn um, er var með Gunnare: „menn fara at bønom, eige allfáer saman.“ „Já,“ sagðe Gunnarr, „suá er þat“; ok gengr heim til bøiarens ok tók boga, — því hann skaut allra manna bezt af honom, ok er þar helzt til iafnat, er var Gunnarr at Hlíðarenda. Hann hafðe þá húsat vel bøenn; en gluggr var á útehurðenne, suá at maðr mátte rétta út hǫfoð sitt. Hann stóð við hurðena með bogann.

Nú kømr Þóroddr at bønom ok gengr at durom við fá menn ok spyrr, ef Gunnarr vill nǫkkora sætt bióða. Hann suarar: „ek veit eige, at ek eiga nǫkkot at bøta; en hitt vænter mik, áðr ér fáeð mitt vald, at griðkonor mínar mune stunget hafa nǫkkora þína félaga suefnþorne, áðr ek hníga í gras!“ Þóroddr suarar: „satt er þat, at þú ert afbragð flestra manna nú, þeirra sem uppe ero. En þó má koma suá mart lið í móte þér, at þú geter eige við staðet; þuíat faðer minn ríðr at garðe með miket lið ok ætlar at drepa þik.“ Gunnarr suarar: „vel er þat! en þat munda ek vilia, at ek hefða mann fyrer mik, áðr ek hníga at velle. En eige gruna ek þat, þótt faðer þinn halde lítt sætternar.“ „Hina leið er,“ sagðe Þóroddr, „at vér viliom giarna sættask. Ok rétt nú fram hǫndena með góðom vilia þínom ok gipt mér Ióffríðe, dóttor þína!“ Gunnarr suarar: „eige kúgar þú dóttor mína af mér. En eige være þat fiarre iafnaðe boðet saker þín, þuíat þú ert góðr drengr.“ Þóroddr suarar: „eige mon þat suá virt af góðgiǫrnom mǫnnom, ok kann ek mikla þǫkk fyrer, at þú taker þenna kost, með þeim máldǫgom sem þuí høfer.“ Ok nú við umtǫlor vina sinna ok þat annat, at honom þótte Þóroddr iafnan vel faret hafa með síno mále, þá verðr þat af, at Gunnarr rétter fram hǫndena, ok lúka suá þesso mále.

Nú í þesso kømr Oddr í tún, ok snýr þóroddr þegar í mót fǫðor sínom ok spyrr, huat hann ætlar. Hann kuezk ætla at brenna bøenn ok suá mennena. þóroddr suarar: „á aðra leið er nú komet máleno, ok erom vit Gunnarr nú sátter;" ok seger allt, hué komet er. „Heyr hér á endeme!" seger Oddr, „være þér þá verra, at eiga konona, þótt Gunnarr være drepenn áðr, er mestr var várr mótstǫðomaðr? ok hǫfom vér illt at verke at hefia þik." þóroddr suarar ok mælte: „við mik skaltu nú fyrst beriask, ef eige kømr ǫðro við." Ganga menn nú í mille ok sætta þá feðga. Urðo þær málalykter, at Iófríðr er gefen þórodde. Ok líkar Odde stórilla. Fara nú heim við suá búet. Epter þat sitia menn at boðe, ok uner þóroddr allvel síno ráðe.

Ok at vetre afliðnom ferr þóroddr utan, þuíat hann hafðe spurt, at þorvaldr, bróðer hans, var í hǫptom, ok vilde leysa hann með fé. Hann kømr til Noregs — ok kom eige út síðan ok huárge þeirra brøðra.

Oddr tók nú at eldask miǫk; ok er hann spurðe þat, at huárge sona hans munde til koma, tók hann sótt mikla. Ok er at honom tók at þrøngua, mælte hann við vine sína, at þeir munde flytia hann upp á Skáneyiarfiall, þá er hann være dauðr, ok kuazk þaðan vildo siá yfer Tungona alla. Ok suá var gǫrt. En Iófríðr Gunnarsdótter var síðan gefen þorsteine Egelssyne at Borg ok var enn meste kuennskǫrungr.

Ok lýkr þar Hónsna-þóres sǫgo.

---

# Bandamanna Saga.

1. 'Ofeigr hét maðr, er bió vestr í Miðfirðe, á þeim bǿ, er at Reykiom heiter. Hann var Skíðason, en móðer hans hét Gunnlaug. Móðer hennar var Iárngerðr, dótter 'Ofeigs Iárngerðarsonar, norðan ór Skǫrðom. Hann var kuǽntr maðr, ok hét þorgerðr kona hans ok var Valadótter, ǽttstór kona ok enn meste kuennskǫrungr. 'Ofeigr var spekingr mikell ok enn meste ráðagørðamaðr. Hann var í ǫllo mikelmenne; en ekke var honom fiárhagrenn hǿgr: átte lendor miklar, en minna lausafé. Hann sparðe við engan mann mat; en þó var miǫk á fǫngom, þat er til búsens þurfte at hafa. Hann var þingmaðr Styrmes frá 'Asgeirsǫ́, er þá þótte mestr hǫfðinge vestr þar.

'Ofeigr átte son við kono sinne, er Oddr hét. Hann var vǽnn maðr ok brátt vel menntr. Ekke hafðe hann mikla ǫ́st af fǫðor sínom. Enge var hann verksmíðarmaðr.

Vale hét maðr, er þar óx upp heima hiá 'Ofeige. Hann var vǽnn maðr ok vinsǽll.

Oddr óx upp heima með fǫðor sínom, þar til er hann var tolf vetra gamall. 'Ofeigr var fálátr lǫngom við Odd ok unne honom lítet. Sá orðrómr lagðesk á, at enge maðr þar í sneitom vǽre betr menntr en Oddr.

Einn tíma kømr Oddr at mále við fǫðor sinn ok beiðer hann fiárframlaga: „ok vil ek fara á braut heðan. Er á þá leið,“ sagðe hann, „at þú leggr til mín litla sømð. Em ek ok ekke nytsamlegr yðro ráðe.“ 'Ofeigr suarar: „ekke mon ek minnka tillǫg við þik ór því, sem þú hefer til unnet; mon ek ok því nǽst gøra, ok montu

þá vita, huert fullting þér er at þuí.“ Oddr sagðe, at lítt mátte hann við þat styðiask mega; ok skilia við þat talet.

Annan dag epter tekr Oddr vað af þile ok ǫll veiðarføre ok tolf alnar vaðmáls. Hann gengr nú í braut ok kueðr engan mann. Hann ferr út á Vatnsnes ok ræzk þar í sueit með vermǫnnom, þiggr at þeim hagræðe þau, sem hann þarf nauðsynlegast, at láne ok leigo. Ok er þeir visso ætt hans góða, en var vinsæll sialfr, þá hætta þeir til þess, at eiga at honom. Kauper hann nú allt í skuld ok er með þeim þau missere í fiskevere. Ok er suá sagt, at þeirra hlutr være í bezta lage, er Oddr var í sueit með. Þar var hann þriá vetr ok þriú sumor, ok var þá suá komet, at hann hafðe þá aptr goldet hueriom þat er átte, en þó hafðe hann aflat sér góz kaupeyres. Aldre vitiaðe hann fǫðor síns, ok suá láta þeir huárer, sem engo ætte við aðra at skylda. Oddr var vinsæll við sína félaga.

Þar kømr, at hann ræzk í flutningar norðr til Stranda með farma, ok kauper sér ferio. Aflar þá suá fiár. Nú grøðer hann brátt fé, þar til er hann á einn feriona; ok heldr nú suá mille Miðfiarðar ok Stranda nǫkkor sumor. Tekr hann nú at hafa vel fé.

Þar kømr enn, at honom leiddesk siá athǫfn. Nú kauper hann í skipe ok ferr utan, ok er nú í kaupferðom um hríð; ok teksk enn vel til þessa ok liðmannlega. Verðr honom nú enn gott bæðe til fiár ok mannheilla. Þessa iðn hefer hann nú fyrer stafne, þar til er hann á einn knǫrr ok mestan hluta áhafnar. Er nú í kaupferðom ok gøresk stórauðegr maðr ok ágætr. Hann var opt með hǫfðingiom ok tignom mǫnnom utanlanz ok virðesk þar vel, sem hann var. Nú gører hann suá auðgan, at hann á tuá knǫrro í kaupferðom. Ok suá er sagt, at enge maðr være í þann tíma í kaupferðom, sá er iafnauðegr være sem Oddr. Hann var ok farsælle en aðrer menn.

Aldre kom hann norðarr skipe síno en á Eyiafiǫrð ok eige vestarr en í Hrútafiǫrð.

2. þess er getet, eitthuert sumar, at Oddr kømr skipe síno á Hrútafiǫrð við Borðeyre, ok ætlar at vera hér um vetrenn. þá var hann beðenn af vinom sínom, at staðfestask hér. Ok epter bøn þeirra gører hann suá; kauper land í Miðfirðe, þat er á Mel heiter. Hann efler þar mikenn búnað ok gøresk rausnarmaðr í búeno. Ok er suá sagt, at eige þótte um þat minna vert en um ferðer hans áðr. Ok nú var enge maðr iafnágætr sem Oddr var fyrer norðan land. Hann var betre af fé en flester menn aðrer, góðr órlausna við þá, er hans þurfto ok í nánd honom vǫro; en fǫðor sínom gørðe hann aldre hagræðe. Skip sitt sette hann upp í Hrútafirðe. þat er sagt, at enge maðr være iafnauðegr hér á 'Islande sem Oddr; heldr segia menn hitt, at hann hafe eige átt minna fé en þrír þeir er auðgaster vǫro. 'I ǫllo lage var hans fé miket: gull ok silfr, iarðer ok ganganda fé. Vale, frænde hans, var með honom, huárt sem hann var hér á lande eða utanlanz. Oddr sitr nú í búe síno með slíka sømð, sem nú er frá sagt.

Maðr er nefndr Glúmr. Hann bió á Skriðnesenne; þat er mille Bitro ok Kollafiarðar. Hann átte þá kono, er þordís hét; hon var dótter 'Asmundar hærolangs, fǫðor Grettes 'Asmundarsonar. 'Ospakr hét son þeirra. Hann var mikell maðr vexte ok sterkr, ódæll ok uppevǫzlomikell, — var brátt í flutningom mille Stranda ok norðrsueita, — gørfelegr maðr, ok gøresk rammr at afle. Eitt sumar kom hann í Miðfiǫrð ok selde fang sitt. Ok einn dag fekk hann sér hest ok reið upp á Mel; ok hitter Odd. þeir kuǫddosk ok spurðosk almæltra tíðenda. 'Ospakr mælte: „á þá leið er, Oddr,“ sagðe hann, „at góð frétt ferr um yðuart ráð: ertu miǫk lofaðr af mǫnnom, ok aller þykkiask þeir vel komner, er með þér ero. Nú vænte ek, at mér mune suá gefask: vilda ek hingat ráðask til þín.“ Oddr suarar: „ekke ertu miǫk lofaðr af mǫnnom,

ok eige ertu vinsǽll: þykker þú hafa brǫgð under brúnom, suá sem þú ert ǽttborenn til.“ 'Ospakr suarar: „haf við raun þína, en eige sǫgn annarra! þuíat fátt er betr látet, en efne ero til. Beiðe ek þik ekke giafar at: vilda ek hafa hús þín, en fǿða mik sialfr, ok siá þá, huerso þér gezk at.“ Oddr suarar: mikler eroð ér frǽndr ok torsótter, ef yðr býðr við at horfa! En við þat er þú skorar á mik til viðtǫko, þá megom vit á þat hǽtta vetrlangt.“ 'Ospakr tekr þat með þǫkkom, ferr um haustet á Mel með feng sinn, ok gøresk brátt hollr Odde, sýslar vel um búet ok vinnr sem tueir aðrer. Odde líkar vel við hann.

Líða þau missere. Ok er várar, býðr Oddr honom heima at vera ok kuezk suá betr þykkia. Hann vill nú ok þat. Annask 'Ospakr um búet, ok ferr þat stórvel fram; þykker mǫnnom mikels um vert, huerso þesse maðr gefsk. Hann er ok vinsǽll sialfr, ok stendr nú búet með miklom blóma, ok þykker einskes mannz ráð virðolegra vera en Odz.

Einn hlut þykker mǫnnom at skorta, at eige sé ráð hans með allre sǿmð: at hann er maðr goðorzlauss. Var þat þá mikell siðr, at taka upp ný goðorð eða kaupa. Ok nú gørðe hann suá. Sǫfnoðosk honom skiótt þingmenn; vǫ́ro aller til hans fúser. Ok er nú kyrt um hríð.

3. Odde hugnar vel við 'Ospak, lét hann miǫk ráða fyrer búeno. Hann var bǽðe harðvirkr ok mikelvirkr, ok þarfr búeno. Líðr af vetrenn, ok hugnar Odde nú betr við 'Ospak en fyrr; þuíat nú hefsk hann at fleira. 'A haustom heimter hann fé af fialle, ok urðo góðar heimtor: misste einskes sauðar.

Líðr nú af vetrenn ok várar. Lýser Oddr þuí, at hann ǽtlar utan um sumaret, ok seger, at Vale, frǽnde hans, skal taka þar við búe. Vale suarar: „suá er háttat, frǽnde, at ek em ekke þuí vanr, ok vil ek heldr annask um fé okkart ok kaupeyre.“ Oddr snýr nú at 'Ospake ok biðr hann taka við búe. 'Ospakr suarar: „þat er mér ofráð, þó at nú

flytesk fram, er þú ert við.“ Oddr leitar epter, en 'Ospakr ferr undan — ok er þó óðfúse til. Ok þar kømr, at hann biðr Odd ráða, ef hann heitr honom sinne ásiǫ́ ok trauste. Oddr seger, at hann skal suá fara með hans eigo, sem hann verðr mestr maðr af ok vinsælastr; sagðesk þat reynt hafa, at eige mon annarr maðr betr kunna né vilia hans fé varðveita. 'Ospakr biðr nú á hans valde vera. Lúka nú suá taleno.

Oddr býr nú skip sitt ok lætr berą vǫro til. Þetta fréttesk, ok er margtalat um. Oddr þurfte eige langan búnað. Vale ferr með honom. Ok þá er hann er albúenn, leiða menn hann til skips. 'Ospakr leidde hann í lengra lage; ǫtto þeir mart at tala. Ok er skammt var til skips, þá mælte Oddr: „nú er sá einn hlutr, er óskilat er.“ „Huat er þat?“ sagðe 'Ospakr. „Ekke er sét fyrer goðorðe míno,“ sagðe Oddr, „ok vil ek, at þú taker við.“ „'A þesso er enge gegning,“ seger 'Ospakr, „em ek ekke til þess førr. Hefe ek þó meira á hendr tekezk, en líklegt sé, at ek valda eða vel leysa. Er þar enge maðr iafnvel til fallenn sem faðer þinn: er hann enn meste málamaðr ok forvitre.“ Oddr kuezk eige mundo honom í hendr fá: „ok vil ek, at þú taker við.“ 'Ospakr ferr undan — ok vilde þó fegenn. Oddr seger á reiðe sína, ef hann tekr eige við. Ok at skilnaðe þeirra tekr 'Ospakr við goðorðeno.

Ferr Oddr nú utan, ok teksk vel hans ferð, sem vanðe hans var til. 'Ospakr ferr heim; ok var margtalat um þetta mál: þykker Oddr miket vald hafa þessom manne í hendr fenget.

'Ospakr ríðr til þings um sumaret með flokk manna, ok teksk honom þat vel ok liðmannlega, kann þat allt vel af hǫndom at leysa, er hann skylda lǫg til; ok ríðr af þinge með sømð. Hann heldr kappsamlega sína menn, ok láta huerge sinn hlut, ok er ekke miǫk á þá genget. Hann er góðr ok greiðr við alla sína nágranna. Huerge þykker nú minne rausn né risna á búeno en áðr; eige

skorter umsýslo, ok fara rǫðen vel fram. Líðr nú á sumaret; ríðr hann til leiðar ok helgar hana. Ok er á leið haustet, ferr hann á fiall, er menn ganga at geldfé, ok verða heimtor góðar: er ríkt fylgt, ok misser einskes sauðar, huárke fyrer sína hǫnd né Odz.

4. Suá bar til um haustet, at 'Ospakr kom norðr í Víðedal, á Suǫlostaðe. Þar bió kona sú er Suala hét. Þar var honom veittr beinleike. Hon var væn kona ok ung. Hon talar til 'Ospaks ok biðr hann siá um ráð sitt: „hefe ek þat frétt, at þú ert búmaðr mikell.“ Hann tók þuí vel; ok tala þau mart. Fellzk huárt ǫðro vel í geð, ok litosk þau vel til ok blíðlega. Ok þar kømr tale þeirra, at hann spyrr, huerr ráða eige fyrer koste hennar. „Enge maðr er mér skyldre,“ seger hon, „sá er nǫkkors er verðr, en Þórarenn Langdølagoðe enn spake.“ Síðan ríðr 'Ospakr til fundar við Þórarenn, ok er þar teket við honom vel at eins. Hann hefer nú uppe sitt erende ok biðr Suǫlo. Þórarenn suarar: „ekke kann ek at girnask til þíns mæges. Er margtalat um þínar meðferðer. Kann ek þat siá, at ekke má í tueimr hǫndom hafa við slíka menn: annathuárt at taka upp bú hennar ok láta hana fara hingat, ella monoð it gøra, sem ykkr líkar. Nú mon ek mér engo af skipta, ok kalla ek ekke þetta mitt ráð.“

Epter þetta ferr 'Ospakr á braut ok kømr á Suǫlostaðe ok seger henne suá búet. Nú gøra þau ráð sitt, ok fastnar hon sik siǫlf, ok ferr hon með honom á Mel; en þau eiga bú á Suǫlostǫðom ok fá menn til fyrer at vera. Nú er 'Ospakr á Mel ok helt rausn í búeno. Hann þótte þó vera ódældarmaðr mikell.

Nú líðr af vetrenn, ok um sumaret kom Oddr út í Hrútafirðe: hafðe honom enn orðet gott til fiár ok mannheilla; kømr heim á Mel ok lítr yfer eigner sínar: þykker vel varðveitzk hafa ok gezk vel at. Líðr nú á sumaret. Þat er eitt sinn, at Oddr vekr til við 'Ospak, at vel munde fallet, at hann tøke við goðorðe síno. 'Ospakr sagðe: „iá,“ seger hann, „þar er sá hlutr, er ek var

ófúsastr til með at fara ok sízt til fǿrr. Em ek þess ok albúenn. En þat ǽtla ek mǫnnom þó tíðast, at þat sé gǫrt annathuárt á leiðom eða þingom.“ Oddr suarar: „þat má vel vera.“

Líðr nú á sumaret at leiðenne fram. Ok leiðarmorgenenn, er Oddr vaknar, litask hann um ok sér fátt manna í skálanom — hefer hann sofet fast ok lenge —, spratt upp ok veit, at menn ero gǫrsamlega ór skálanom. Honom þótte þetta undarlegt, ok talar þó fátt; hann býsk um ok nǫkkorer menn með honom, ok ríða nú til leiðarennar. Ok er þeir kómo þar, þá var þar mart manna fyrer, ok vǫ́ro þá miǫk braut búner, ok var helgoð leiðen. Odde bregðr nú í brún; þykker undarleg þesse tiltekia. Fara menn heim, ok líða þaðan nǫkkorer dagar.

Þat var enn einn dag, er Oddr sat under borðe ok 'Ospakr gegnt honom; ok er minnzt varer, hleypr Oddr undan borðeno ok at 'Ospake, ok hefer reidda øxe í hende sér: biðr hann nú laust láta goðorðet. 'Ospakr suarar: „eige montu þurfa með suá miklo kappe at sǿkia! Þegar hefer þú goðorð, er þú vill, ok vissa ek eige, at þér vǽre alvara við at taka.“ Rétte hann þá fram hǫndena ok fekk Odde goðorðet.

Var nú kyrt um hríð; ok heðan af gøresk fátt með þeim Odde ok 'Ospake; er 'Ospakr heldr ýgr viðskiptes. Grunar menn um, at 'Ospakr munde hafa ǽtlat sér goðorðet at hafa, en eige Odde, ef eige hefðe veret kúgat af honom, at hann mǽtte undan komask. Nú verðr ekke af búsumsýslonne: Oddr kueðr hann at engo. Mǽltosk þeir ok ekke við. Þat var einn dag, at 'Ospakr býr ferð sína. Oddr lǽtr, sem hann vite þat eige: skiliask þeir suá, at huárge kueðr annan. 'Ospakr ferr nú á Suǫlostaðe til bús síns. Oddr lǽtr nú, sem ekke sé at orðet. Ok er nú kyrt um hríð.

Þess er getet, at um haustet fara menn á fiall, ok skaut miǫk í tuau horn um heimtor Odz frá því er veret hafðe. Hann skorte at haustheimto fióra tigo geldinga, ok

þá alla, er bezter vǫro af fé hans. Er nú víða leitat um fiǫll ok heiðar, ok finnask eige. Undarlegt þótte þetta vera; þuíat Oddr þótte féauðuomaðr meire en aðrer menn. Suá mikell atrekande var gǫrr um leitena, at bæðe var leitat til annarra heraða ok heima; ok gørðe eige. Ok um síðer dofnar enn yfer þesso; ok var þó margrøtt um, huerio gegna munde.

Oddr var ekke glaðr um vetrenn. Vale, frænde hans, frétte hann, huí hann være óglaðr: „eða huárt þykke þér suá miket geldingahuarfet? ok ertu eige þá mikell borðe, ef þik hrygger slíkt.“ Oddr suarar: „eige hrygger mik geldingahuarfet. En hitt þykke mér verra, er ek veit eige, huerr stolet hefer.“ „Þykke þér þat víst,“ seger Vale, „at þat mon af orðet? eða huar horfer þú á helzt?“ Oddr suarar: „ekke er þuí at leyna, at ek ætla 'Ospak stolet hafa.“ Vale suarar: „fersk nú vinátta ykkor frá þuí, er þú setter hann yfer allt þitt góz.“ Oddr kuað þat veret hafa et mesta glapræðe ok vǫnom betr tekezk hafa. Vale mælte: „margra manna mál var þat, at þat være undarlegt. Nú vil ek, at þu snúer eige suá skiótt máleno til áfelles honom: er þat hætt við orðe, at ómerkelega þykke verða. Nú skolom vit þuí saman kaupa,“ sagðe Vale, „at þú skalt mik láta fyrer ráða, huerso at er faret; en ek skal verða víss ens sanna.“ Nú kaupa þeir þesso.

Vale býr nú ferð sína ok ferr með varning sinn; ríðr út til Vatnsdals ok Langadals ok selr varningenn. Var hann vinsæll ok tillagagóðr. Hann ferr nú leið sína, þar til er hann kømr á Suǫlostaðe; ok fekk þar góðar viðtǫkor. 'Ospakr var allkátr. Vale biósk þaðan um morgenenn. 'Ospakr leidde hann ór garðe ok frétte margs frá Odde. Vale sagðe gott af hans ráðe. 'Ospakr lét vel yfer honom ok kuað hann vera rausnarmann mikenn: „eða er hann fyrer skǫðom orðenn í haust?“ Vale kuað þat satt vera. „Hueriar ero getor á um sauðahuarfet? hefer Oddr lenge fégefenn veret hér til.“ Vale suarar: „eige er þat á eina leið. Sumer ætla, at vera

mune af mannavǫldom.“ 'Ospakr seger: „ǽtlanda er slíkt; ok er eige margra brǫgð.“ „Suá er ok,“ seger Vale. 'Ospakr mǽlte: „hefer Oddr nǫkkorar getor á?“ Vale mǽlte: „fátalaðr er hann til; en þó er fiǫlrøtt um af ǫðrom mǫnnom, huerio gegna mune.“ „Þat er epter vǫ́nom“, sagðe 'Ospakr. „'A þá leið er“, sagðe Vale, „er þó hǫfom vit þetta talat, at þat vilia sumer menn kalla eige óvǽnt, at vera mune af þínom vǫldom: draga menn þat saman, er it skilðoð stuttlega, en huarfet varð eige miklo síðarr.“ 'Ospakr suarar: „eige varðe mik, at þu munder slíkt mǽla! ok ef vit vǽrem eige slíker viner, þá munda ek þessa sárlega hefna.“ Vale suarar: „eige þarftu þessa at dylia eða suá óðr við at verða! Eige mon þetta af þér bera; ok hefe ek sét yfer ráð þitt, ok sé ek þat, at miklo hefer þú meire fǫng en líklegt sé, at vel mune fenget.“ 'Ospakr suarar: „eige mon suá reynask! ok eige veit ek, huat tala fiándmenn várer, er slíkt tala vinerner.“ Vale suarar: „þetta er ok ekke af fiándskap mǽlt af mér við þik, er þú heyrer einn á. Nú ef þú gører suá sem ek vil ok ganger við fyrer mér, þá mon þér létt falla; þuíat ek skal setia ráð til þess: ek hefe seldan varning minn víða um sueiter: mon ek segia, at þú hafer við teket ok keypt þér með slátr ok aðra hlute: mon þat enge maðr mistrúa. Skal ek suá til haga, at þér verðe enge ósǿmð at þesso, ef þú fylger míno ráðe at.“ 'Ospakr sagðesk eige mundo við ganga. „Þá mon fara verr“, seger Vale, „ok veldr þú sialfr.“

Síðan skiliask þeir, ok ferr Vale heim. Oddr spyrr, huers hann hefðe víss orðet um sauðahuarfet. Vale lét sér fátt um finnask. Oddr mǽlte: „nú þarf eige við at dyliask, at 'Ospakr hefer stolet; þuíat þú munder hann giarna undan bera, ef þú mǽtter.“ Er nú kyrt um vetrenn.

Ok er váraðe ok stefnodagar kómo. Þá ferr Oddr með tuttogo menn, þar til er hann kom miǫk at garðe á Suǫlostǫðom. Þa mǽlte Vale við Odd: „nú skoloð ér láta

taka níðr hesta yðra, en ek mon ríða til húss ok hitta 'Ospak ok vita, ef hann vile sættask, ok þurfe málet eige fram at hafa." Nú gøra þeir suá. Vale ríðr heim. Ekke var manna úte. Opnar vǫro dyrr. Gengr Vale inn. Myrkt var í húsom. Ok er minnzt varer, hleypr maðr ór seteno ok høggr mille herða Vala, suá at hann fell þegar. Vale mælte: „forða þér, vesall maðr! þuíat Oddr er skammt frá garðe ok ætlar at drepa þik. Send kono þína á fund Odz, ok sege hon, at vit sém sátter, ok hafer þú genget við máleno, en ek sé farenn at fiárreiðom mínom út í dale." þá mælte 'Ospakr: „þetta er et versta verk orðet! hafða ek Odde þetta ætlat, en eige þér."

Suala hitter nú Odd ok seger þá sátta, 'Ospak ok Vala: „ok bað Vale þik aptr huerfa." Oddr trúer þesso ok ríðr heim. Vale lét líf sitt, ok var flutt lík hans á Mel. Odde þótto þetta mikel tíðende ok ill. Fær hann af þesso óvirðing, ok þótte slyslega tekezk hafa.

Nú huerfr 'Ospakr á braut, suá at eige vito menn, huat af honom verðr.

5. Nú er frá þuí at segia, at Oddr býr mál þetta til þings ok kueðr heiman búa. þat verðr til tíðenda, at maðr andask ór kuǫðenne. Oddr kueðr annan í staðenn. Fara menn nú til þings; ok er þar kyrt framan til dóma.

Ok er dómar fara út, hefer Oddr fram vígsmálet; ok teksk honom þat greitt, ok er nú boðet til varna. Skammt í braut frá dómonom sǫto þeir hǫfðingiarner, Styrmer ok þórarenn, með flokk sinn. þá mælte Styrmer við þórarenn: „nú er til varna boðet um vígsmálet; — eða vill þú nǫkkor andsuǫr veita þesso mále?" þórarenn suarar: „engo mon ek mér þar af skipta; þuíat mér sýnesk Odd nóg nauðsyn til reka, at mæla epter slíkan mann, sem Vale var, en sá fyrer hafðr, at ek ætla, at sé enn verste maðr." „Iá," sagðe Styrmer, „eige er maðrenn góðr víst; en þó er þér nǫkkorr vande á við hann." „Ekke hirðe ek þat," sagðe þórarenn. Styrmer mælte: „á hitt er at líta,

at yðuart vandræðe mon verða, ok þá miklo meira ok torveldra, ef hann verðr sekr; ok sýnesk mér ásiámál vera, ok leitom í nǫkkorra ráða: þuíat sióm vit báðer vǫrn í máleno.“ „Fyrer lǫngo sá ek þat,“ seger Þórarenn, „ok lízk mér þó eige ráðlegt, at seinka málet.“ Styrmer mælte: „til þín kømr þó mest! ok þat mono menn tala, at þér verðe lítelmannlega, ef fram ferr málet en vǫrnen sé brýn. Er þat ok mála sannast, at vel være, þótt Oddr visse, at fleire ero nǫkkors verðer en hann einn: trøðr hann oss alla under fótom ok þingmenn vára, suá at hans eins er getet. Sakar eige, at hann reyne, huerso lǫgkønn hann er!“ Þórarenn suarer: „þú skalt ráða, ok þér mon ek atveita. En eige er þetta góðvænlegt, ok mon illan enda eiga.“

„Ekke má at þuí fara!“ sagðe Styrmer; sprettr upp ok gengr at dómom; spyrr, huat þar fare fram mǫlom manna. Honom er þat sagt. Styrmer mælte: Suá er háttat, Oddr! at varner ero fundnar í mále þíno, ok hefer þú rangt til búet málet: kuatt heiman tío búa; er þat lǫgleysa: átter þú þat á þinge at gøra, en eige í heraðe. Gør nú annathuárt: gakk frá dómenom við suá búet, eða vér monom føra fram vǫrnena!“ Oddr þagnar ok hugsar málet; finnr, at satt er; gengr frá dómenom með flokk sinn ok heim til búðar.

Ok er hann kømr í búðarsundet, þá gengr maðr í mót honom; sá er við aldr. Hann var í suartre ermakǫpo, ok var hon komen at slite; ein var ermr á kǫponne, ok horfðe sú á bak aptr. Hann hafðe í hende staf ok brodd í; hafðe síða hettona, ok rak undan skygnor, stappaðe niðr stafnom ok fór heldr biúgr. Þar var komenn 'Ofeigr karl, faðer hans.

Þá mælte 'Ofeigr: „snemma gangeð ér frá dómom!“ sagðe hann, „ok er yðr eige einn hlutr vel gefenn, at suá er allt snarlegt ok snǫforlegt um yðr. Eða er hann sekr, 'Ospakr?“ „Nei,“ sagðe Oddr, „eige er hann sekr.“ 'Ofeigr mælte: „eige er þat hǫfðinglegt, at ginna mik gamlan!

eða huí munde hann eige sekr? var hann eige saðr at sǫkenne?“ „Saðr víst,“ seger Oddr. „Huat er þá?“ seger 'Ofeigr, „ek hugða, at hann mætte bíta sǫken. Eða var hann eige banamaðr Vala?“ „Enge mæler þuí í mót,“ sagðe Oddr. 'Ofeigr mælte: „huí er hann þá eige sekr?“ Oddr suarar: „vǫrn fannzk í máleno, ok fell niðr.“ 'Ofeigr mælte: „huí munde vǫrn finnask í mále suá auðegs mannz?“ „þat kǫlloðo þeir, at rangt være heiman búet,“ seger Oddr. „Eige mon þat vera, er þú fórt með málet,“ sagðe 'Ofeigr, „en vera kann, at þér sé meirr lagðr fé-snúðr ok ferðer en allgott tilstille um málaferle. En þó ætla ek, at þú berer nú eige satt upp fyrer mik.“ Oddr suarar: „ek hirðe aldre, huárt þú trúer eða eige.“ „Suá kann vera,“ sagðe 'Ofeigr, „en þegar vissa ek, er þú fórt heiman ór heraðe, at rangt var til búet málet; en þú þóttesk þér ørenn einn ok vilder engan mann at spyria: nú montu ok vera þér nógr einn um þetta mál. Er nú bæðe, at þér mon vel takask, enda er slíkom allvant um, er allt þykker lágt hiá sér.“ Oddr suarar: „þat er þó sýnna, at eige verðe at þér gagn.“ 'Ofeigr mælte: „sú ein er nú hiǫlpen í þíno mále, ef þú nýtr mín við. Eða huerso fésparr munder þú nú vera, ef nǫkkorr leiðrétte málet?“ Oddr suarar: „ekke sperða ek fé, ef nǫkkorr vilde ganga í málet.“ 'Ofeigr mælte: „þá láttu koma í hendr karle þessom sióð nǫkkorn digran; þuíat margra manna augo verða féskiǫlg.“

Oddr fær honom mikenn fésióð. þá spurðe 'Ofeigr: „huárt var fram førð lǫgvǫrnen eða eige?“ „Fyrre gengom vér frá dómonom,“ sagðe Oddr. 'Ofeigr suarar: „þat eina heldr fram, er þú gørðer óvitande!“ Nú skiliask þeir, ok gengr Oddr heim til búðar sinnar.

6. Nú er þar til at taka, at 'Ofeigr karl gengr upp á vǫllona ok til dómanna. Kømr at Norðlendinga dóme ok spyrr, huat þar fare fram mǫlom manna. Honom er sagt, at sum vǫro dømð, en sum búen til reifingar. „Huat líðr um mál Odz, sonar míns? eða er þuí loket nu?“ „Loket

